# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

8. árg. WINNIPEG, FEBRÚAR 1894. Nr. 12.

## Morgunsöngr

eftir INGEMANN, þýddr af séra *Mattíasi Jokkumssyni.*

(„I Östen stiger Solen up". — Lagið eftir Weyse).

Í austri rennr signuð sól
og sveipar gulli ský,
og brunar yfir bjargastól
og borg og land á ný.

Hún kemr beint úr austrátt,
þar Eden mannsins lá,
og boðar fögnuð, blíðu' og sátt
í borg og hreysi smá.

Frá ströndum þeim oss heilsar hún,
er hófst vor þunga leið
og hníga vötn af himinbrún
um helgan lífsins meið.

Frá Betlehem oss heilsar hún,
þar hæsta ljósið rann,
er birtu slær um borg og tún
og blessar þjáðan mann.

því hverfa önnur himinljós
og hnegja dagsins brá;
þau lúta œðri logarós,
sem lífið kemr frá.

Þú, háa morgunsólna sól,
þér syngja börnin prís,
og þakka líkn og líf og skjól
frá ljóssins paradís.

## Má reiða sig á guðspjallasöguna?

Eftir dr. *F. Godet* í Neuchatel í Sveiss.

Framhald.

Þessar þrjár guðspjallasögur voru þannig semma til, og höfundar þeirra stóðu persónulega í nánu sambandi við hina upphaflegu votta. Af þessu leiðir það, að efnið hlýtr áreiðanlegt að vera, bæði að því er snertir rœður Jesú og eins verk hans. Það er með öllu óhugsanlegt, að efnið í ritum þessum hefði getað myndazt í hugum manna eins og æfintýri á ekki lengri tíma en 30—40 árum, sérstaklega þar sem eins stóð á öllu eins og vér vitum að gjörði á þeim tíma. Svo stórkostleg þjóðsagnamyndan er ómöguleg.

En vissan um áreiðanlegleik guðspjallasögunnar verðr enn þá augsýnilegri, ef maðr man eftir því, að sögur guðspjallanna í sínu ákveðna orðalagi voru lifandi í manna munnum löngu áðr en þær voru fœrðar í letr, og því með, að þessar munnlegu guðspjallasögur má rekja alla leið upp að atburðunum sjálfum, sem frá er sagt. Til þess að ná fullvissu um þetta efni verðum vér stuttlega að rannsaka hin þrjú guðspjöll, ekki að eins hvert um sig, eins og þegar er gjört, heldr þau öll sameiginlega, og kemr við rannsókn þá ekki að eins það í ljós, að rit þessi eru hvert öðru svo náskyld, heldr einnig hvernig á þeim einkennilega skyldleik stendr.

5. Þrátt fyrir það, að þessi þrjú rit eru hvert öðru svo frábrugðin, er efni þeirra allra í aðalatriðunum hið sama, og frá-

sagnir þeirra eru meira að segja oft svo samhljóða, að það er enginn orðamunr. Það hefir verið reynt til að gjöra grein fyrir þessu á ýmsan hátt. Það hefir verið sagt, að einn guðspjallamaðrinn hafi ritað upp eftir öðrum, og hinn þriðji hafi ritað upp það, sem hinir báðir rituðu, eða tveir ritað upp eftir einum; og hafa menn með þessu lent út í heila flækju af getgátum. Hvernig ætti maðr þá að gjöra sér skiljanlegar hinar mörgu breytingar, sem hver einstakr guðspjallamaðr eftir þessu hlyti að hafa leyft sér að gjöra við frásögu hins eða hinna? Orð drottins sjálfs voru kirkjunni vafaflaust svo heilög, að enginn myndi hafa dirfzt að breyta þeim eftir eigin hugþótta, og þó hljóða þau einatt býsna ólíkt hjá hinum þremr guðspjallamönnum. Er því að athuga, hvort gjöra má grein fyrir hinni nákvæmu samhljóðan á hinum ýmsu köflum guðspjalla þessara á annan hátt. Inngangrinn til Lúkasar guðspjalls, sem þegar hefir verið minnzt á, gjörir það fullkomlega ljóst, hvernig í þessu liggr. Lúkas getr þess þar, að hann hafi efni guðspjallasögu sinnar beinlínis frá mönnum þeim, „er frá öndverðu sjálfir voru sjónarvottar og þjónar orðsins"; á hann þar augsýnilega við postulana og staðfestir þannig, að hin munnlega frásaga þeirra sé hin sameiginlega uppspretta allra hinna rituðu frásagna um æfi drottins. Staðrinn, þar sem frásögur þessar áttu sitt aðalheimkynni, var auðvitað Jerúsalem, þar sem postularnir lengst af höfðu aðsetr fyrstu 25 árin eftir dauða meistara síns og drottins. Í prédikan sinni vitnuðu þeir fremr öllu öðru um líf og framkvæmdir drottins, um dauða hans og upprisu, og var það söfnuðinum sem daglegt brauð. (Pg. 2, 42: „*Héldu þeir sér stöðuglega við postulanna kenning* í félagsskap, samnautn og bœnahaldi".) Sömu rœðurnar eftir Jesú, sömu frásögurnar um æfi hans voru margendrteknar og fengu með því móti smásaman ákveðið form, sem jafnvel náði til hinna einstöku orðatiltœkja, einkum fyrir þá sök, að sögunum, sem upphaflega voru á hebresku, varð að snúa á grísku fyrir hina mörgu Gyðinga, sem þá tungu töluðu, Hellenistana, er svo eru nefndir. Sérstök grísk orðatiltœki voru viðhöfð, sem bezt þóttu við eiga, til að tákna hebresk orð, sem ervitt er að þýða, og þau orðatiltœki eru svo látin halda sér í öllum síðari frásögum, er skráðar voru á grísku. Það mynduðust jafnvel nokkrir ákveðnir flokkar af frásögnum, þar sem nið-

röðun atburðanna var æfinlega eins, og skulum vér í þessu tilliti nefna framkomu Jóhannesar skírara, skírn Jesú og freisting (Matt. 3. og 4. kap.; Mark. 1, 1—13; Lúk. 3. og 4. kap.), og sömuleiðis komu Jesú til Gadara, lækning djöfulóðu mannanna þar, förina þaðan til Kapernaum lækning dóttur Jaírusar undir eins á eftir, o. s. frv. (Matt. 8. og 9. kap,; Mark. 4. og 5. kap.; Lúk. 8. kap.).

þessa undirstöðu hinnar munnlegu, postullegu sögu finnum vér, oft jafnvel með sömu orðum og orðatiltœkjum, í frásögum hinna þriggja guðspjallamanna; og ef vér munum eftir þessari sameiginlegu undirstöðu guðspjallanna, verðr oss skiljanleg hin einkennilega samhljóðan þeirra, sem annars má virðast svo undarleg. það er auðskilið, hvernig á því stendr, að þrátt fyrir þetta getr þó verið munr á sögum þessara guðspjalla. Segi ýmsir menn frá sama upphaflega vitnisburðinum, mun ávallt fara svo, að nokkru muni í smáatriðum, enda þótt allir komi með aðalefnið í sömu mynd. Að því er kemr til orða drottins, einkum úr samrœðum hans við aðra, er munrinn hjá hinum þremr guðspjallamönnum ekki mikill. þar varð auðvitað að gæta hinnar mestu nákvæmni, enda eru þau margsinnis í hinum þremr ritum bókstaflega samhljóða. Sá maðr aftr á móti, er skýrir frá sögulegum atburðum, hefir ekki nærri því eins bundnar hendr, og getr því sett efnið fram eftir því, sem honum þykir bezt við eiga.

Ekki þarf oss heldr að finnast það neitt undarlegt, að þessar frásagnir úr æfi Jesú héldust óbreyttar í marga áratugi, og að postularnir og aðstoðarmenn þeirra sögðu þær því nær bókstaflega samhljóða í hinum breytilegustu söfnuðum. því að eins og vér oft höfum haft tœkifœri til að minna á, stendr afl minnisins í öfugu hlutfalli við þá íþrótt að kunna að rita. Á vorum dögum er naumast unnt að gjöra sér hugmynd um, hve áreiðanlega minnið getr varðveitt hið munnlega orð, þegar ekkert ritað er til að styðja sig við. Efnið í *Veda*-bókunum[1] var til svo öldum skifti áðr en þær voru í letr fœrðar. Sama er að segja um það mikla mál, sem *Talmúd* hefir inni að halda. Og enn

---

1) þ. e. hinum helgu indversku ritningum.

þann dag í dag tíðkast það í austrlöndum, að menn mæli af munni fram órituð ljóð upp á mörg þúsund vers.[1]

Inngangrinn til Lúkasar guðspjalls sýnir oss líka greinilega, að guðspjallasögurnar, sem postularnir og hinir fyrstu aðstoðarmenn þeirra komu með í boðskap sínum, höfðu fastákveðinn búning áðr en þær voru fœrðar í letr.

Hvorki hann né aðrir á undan honum ætluðu sér að segja öðruvísi frá atburðunum en þeir höfðu sagt frá, „er frá öndverðu voru sjónarvottar og þjónar orðsins“. — Rœða Pétrs postula frammi fyrir hinum rómverska hundraðshöfðingja, Korneliusi í Sesarea, gefr oss greinilega hugmynd um þennan postullega prédikunarmáta: „þér þekkið þá atburði, sem gjörzt hafa um allt Gyðingaland og hófust í Galílea eftir þá skírn, sem Jóhannes boðaði, hversu guð smurði Jesúm frá Nazaret með heilögum anda og krafti, að hann gekk í kring, gjörði gott og grœddi alla, sem af djöflinum voru undirokaðir; því guð var með honum, og vér erum vottar að öllu, sem hann gjörði í Gyðingalandi og í Jerúsalem. þennan aflífuðu þeir og festu á tré“ o. s. frv. (Pg. 17, 37-39). — Í bréfum sínum ber Páll postuli einnig iðulega þessa prédikan hinna tólf postula fyrir sig svo sem undirstöðu allrar vissu síðari tíma um hina sögulegu hjálpræðis-atburði. Til dœmis upp á þetta má taka hinn alkunna stað í 1. Kor. 15. kap. frá 3. v.: „því eg kenndi yðr fyrst og fremst þann lærdóm, sem eg hefi meðtekið, að Kristr væri dáinn vegna vorra synda eftir ritningunum, og sé séðr af Kefasi og því næst af hinum tólf. Síðan var hann séðr í einu af meir en fimm hundruð brœðrum, er flestir lifa allt til þessa dags, en sumir eru dánir. þar eftir birtist hann Jakobi, síðan öllum postulunum. Síðast allra opinberaðist hann einnig mér eins og ótímabærum burði,“ o. s. frv.

því fer þannig fjarri, að það sé rétt, sem vanalega er haldið fram, að autt millibil upp á að minnsta kosti fjörutíu ár sé á

1) þetta, sem hér er tekið fram, ætti oss Íslendingum að skiljast eins vel og nokkrum öðrum. Vér efum yfir höfuð ekki áreiðanlegleik hinna beztu fornsagna vorra, þótt vér vitum, að þær geymdust svo lengi að eins í manna munnum áðr en þær voru skrásettar. Og eigi síðr er það vitanlegt, hvernig þjóðsögurnar íslenzku hafa geymzt meðan þær að eins voru *sagðar* eða áðr en alþýða fékk fœri á að lesa þær. Sama sagan var sögð mannsaldr eftir mannsaldr í hinum fjarlægustu og fráskildustu dölum Íslands, oft með allsendis engum orðamun. það er ágætt dœmi þess, hve áreiðanlega hið sögulega orð getr varðveitzt í manna munnum meðan það er enn óritað. Ritst. „Sam.“

milli atburðanna í guðspjallssögunni og þess tíma, er fyrst var rituð saga um þessa atburði, og að nógu langr tími hafi því liðið til þess að óáreiðanlegar þjóðsagnir og æfintýri gæti myndazt. Hinn munnlegi vitnisburðr postulanna fyllir þvert á móti þetta tímabil algjörlega, og þar sem sá vitnisburðr var sí og æ endrtekinn, fékk hann nærri því óbreytilegan búning, og var honum haldið áfram í fast ákveðnu, ófrávíkjanlegu orðalagi, þangað til hann á endanum var fœrðr í letr. Þar sem svona stóð á, er því nær óhugsanlegt, að unnt hafi verið að smeygja ósönnum atburðum og rœðum inn í söguna. Það er of mikil birta yfir atburðunum á postulatíðinni til þess að óvirkilegar draummyndir gæti skoðaðar orðið sem virkilegleikr. Helgisögu-æfintýrin byrja ekki fyr en seinna, svo sem sjá má af hinum *apokryphisku* guðspjöllum frá annarri öld.

6. Sé nú þessu næst spurt að því, hvernig vitað verði með vissu, að þessar frásagnir um atburði í æfi Jesú, sem upphaflega geymdust að eins í manna munnum, hafi haldizt óafbakaðar og áreiðanlegar, þá er þetta svar vort: Í þessu efni treystum vér hinum tólf trúu vottum, sem kristin kirkja á að þakka framfarir sínar og vöxt á elztu tíð. Þeir fengu köllun til að vera vottar drottins, og um samvizkusemi þeirra getr enginn efazt, sérstaklega að því er það snertir, að fara í vitnisburði sínum að eins með það, er þeir vissu að satt var. Svo sem þegar er um getið, telr annar eins maðr og *Strauss* það siðferðislega óhœfu, ef einhver ætlaði að ganga út frá því, að postularnir hefði með ásettu ráði viljað villa sjónir fyrir mönnum.

Þótt þeir nú hefði viljað draga heiminn á tálar, þá myndi slík sviksamleg tilraun með engu móti hafa heppnazt upp í opið geðið á þeim mörgu mönnum, sem viðriðnir voru við atburði þá, er frá var sagt, og myndi hafi mótmælt vitnisburði þeirra, ef þar hefði að einhverju leyti verið haggað sannleikanum. Hefði verk Jesú, þau er fram höfðu farið í Kapernaum, Betsaída, Nain, Nazaret, Jerúsalem, og nú voru boðuð af postulunum á þeim sömu stöðum, ekki verið alkunn og ómótmælanleg, myndi allr lýðrinn, sem ekki var hlynntr prédikan þeirra, hafa risið upp á móti þeim með þeirri ákæru, að þeir fœri með lygi.

Það er líka vitanlegt, að postularnir studdu einatt frásögu

sína um atburðina í guðspjalls-boðskap sínum með því að minna á það, að almenningr ætti þess kost, að hafa gát á því, hvort þeir segði satt frá. Vér höfum þegar minnzt á ræðu Pétrs í húsi Kornelíusar (Pg. 10,37: „þér þekkið þá atburði", o. s. frv.). Í Pg. 26, 26 segir Páll (frammi fyrir Agrippa konungi): „Konungrinn skilr þetta, og við hann tala eg því einarðlega, af því eg þykist vita, að honum sé ekkert af þessu hulið, því það er ekki í afkima skeð." Eins stendr á með hinn áðr tilfœrða stað: 1. Kor. 15,6: „Síðan var hann séðr í einu af meir en fimm hundruð brœðrum", o. s. frv.

Vér drögum nú aftr í einu þetta þrennt fram: fyrst hina sameiginlegu undirstöðu hinna þriggja guðspjalla, sem víða er orðrétt hin sama í þeim öllum; því næst uppruna þessarar undirstöðu, það er að segja hinn munnlega, postullega vitnisburð, sem stöðugt og opinberlega var borinn fram frá því Jesús dó og þangað til guðspjöll þessi voru í letr fœrð, allt af með fram í áheyrn fjölda fólks, sem hafði verið við, þá er atburðirnir gjörðust; og enn fremr í þriðja lagi staðfesting Páls postula, í bréfum hans frá því rúmum tuttugu árum eftir dauða Krists, um það, að þessi vitnisburðr sé beinlínis kominn frá postulunum. Þetta allt er oss þannig svo áreiðanleg trygging fyrir því, að öllum helztu atriðum guðspjallssögunnar megi hiklaust trúa, að naumast er unnt með neinni sögulegri rannsókn að komast að meiri vissu. Oss er því fullkomlega óhætt að halda þessu fram hiklaust: Því fer svo fjarri, að kirkjan hafi fundið upp efnið í guðspjöllunum, að það er þvert á móti eigi unnt að gjöra sér neina aðra grein fyrir því að kirkjan varð til en þá, að það sé afleiðing af þessum postullega boðskap, og enga aðra orsök er unnt að hugsa sér til þess, að þessi vitnisburðr kom fram, en atburðina, sem um er ritað.

Og naumast hefði svo mikil mótmæli risið upp gegn svo augsýnilegum sannleika, hefði ekki að því leyti staðið sérstaklega á, að margir atburða þeirra, er æfi Jesú var svo auðug að, voru *yfirnáttúrlegs* eðlis. Á hinn bóginn styðjast mótmæli þau, sem svo einkennileg eru fyrir vorn tíma, gegn því, að undr geti komið fyrir, ekki við neinar vísindalegar röksemdir.

Til að komast til vissu um, hvað sögulegr sannleikr sé, dugir með engu móti að ákveða fyrir fram, hvað komið geti

fyrir og hvað ekki. Menn verða blátt áfram að rannsaka og prófa virkilegleikann. Því að hann fer margoft svo langt út fyrir það, sem vér fáum gjört oss grein fyrir, að vér verðum ávallt að gjöra allt, sem vér getum, til að auka eftirtekt vora, svo vér getum látið það, er fyrir oss kemr í lífi voru, verða andlega eign vora. Þetta gjöra menn, þá er um náttúrufræðisleg efni er að ræða. Menn reyna og prófa, hvað sé eða ekki, og dœma svo um það á eftir, hvað komið geti fyrir og hvað ekki.

Þar sem það nú er nauðsynlegt, að gæta hinnar mestu varkárni í öllu því, er náttúrufræði kemr við, svo hvorki sé of mikið eða of lítið staðhœft, þá er auðsætt, að svona löguð sannleiksást og óhlutdrægni er enn nauðsynlegri, þá er um það er að ræða, að rannsaka hina leyndardómsfullu atburði í hinum andlega heimi, í mannkynssögunni, sem er starfsvæði mannlegs frelsis, meira að segja nokkurskonar vígvöllr, þar sem vilji mannsins og vilji guðs mœtast til baráttu. Á því svæði, og hvergi eins og þar, eru atvikin einatt svo óskiljanlega samtvinnuð, að engin mannleg skarpskyggni fær fyrir fram sagt með vissu, hvernig úr þeirri flœkju skal greiða. Taki heilbrigð skynsemi tillit til þess hlutverks, sem yfir höfuð liggr fyrir henni út af virkilegleik þeirra eða þeirra atvika, mun hún láta sér nœgja að rannsaka vandlega vitnisburði þá, sem fyrir hendi eru, íhuga svo, hvað þeir benda á, og veita jafnframt viðtöku öllum nýjum vitnisburðum, sem fyrir kunna að koma, og láta sér ekki detta í hug að gefa út lög fyrir tilveruna eftir eigin hugþótta.

Þá er um sögulegan atburð eins og æfi Jesú er að ræða, er það jafn-mikið á móti allri vísindalegri aðferð að segja fyrirfram, að allt hafi í þeirri æfisögu hlotið að vera náttúrlegt, eins og að segja fyrirfram, að sú æfisaga hljóti að hafa verið yfirnáttúrleg — í staðinn fyrir blátt áfram að rannsaka frásögur þær, er fyrir hendi eru, og ákveða síðan, hvað fyrir hafi komið. Atburðirnir eiga á undan öllu öðru að ráða og svo þar næst mannleg skynsemi. Hennar ætlunarverk er að eins að gjöra sér ljóst og kannast við það, sem komið hefir fram.

(Framhald í næsta blaði.)



Síðasti (16.) kapítuli Markúsar-guðspjalls er 20 vers. Af þeim 20 versum vanta hin 12 síðustu, eða versin 9—20., í tvö elztu handrit af guðspjöllunum, sem til er á frummálinu, svo að eftir þeim endar guðspjallið á 8. versinu. þessi síðari hluti kapítulans, sem þannig vantar í hin tvö handrit, er mjög þýðingarmikill að efni til, einkum fyrir þann vitnisburð, sem þar er að finna, um síðustu opinberan Jesú fyrir lærisveinum hans áðr en hann sté upp til himins og himnaförina sjálfa. Kafli þessi stendr nú í mörgum gömlum og góðum handritum af guðspjallinu,og hinir fornu kirkjufeðr viðrkenna í einu hljóði, að hann sé ekta,enda er hann tekinn með í allar biblíu-útgáfur á öllum tungum. En fyrir þá sök, að hin tvö guðspjallahandrit, sem ekki hafa hin 12 vers, eru eldri en öll önnur, hafa jafnvel sumir trúaðir guðfrœðingar hikað sér við að eigna þessum kafla gildi sem fullkomnu guðspjallsorði. Og vantrúar-glamrararnir sumir hafa hent þetta á lofti og reynt til að gjöra úr því heilmikið númer, að annar eins kafli og þessi seinast í Markúsar guðspjalli skuli vera látinn standa í biblíunni og í kirkjunni metinn eins og hver annar hluti guðspjallsins.

það hefir nú almennt meðal guðfrœðinga verið talið víst, að hinn umrœddi kafli, þótt ekta hafi verið talinn, væri af öðrum manni ritaðr en þeim, sem að öðru leyti hefir fœrt guðspjall þetta í letr (Jóhannesi Markúsi) — á sama hátt og það er að sjálfsögðu viðrkennt, að niðrlag 5. Mósesbókar, sem segir frá dauða Mósesar, sé ekta og þó af öðrum ritað en Móses, aðalhöfundi bóka þeirra, sem við hann eru kenndar. það hefir aldrei í kirkjunni verið farið í neina launkofa með það, að niðrlaginu í Markúsar guðspjalli, eins og það stendr í biblíu vorri, muni hafa verið bœtt við guðspjallið af öðrum manni en guðspjallamanninum sjálfum ; en menn hafa haft það fyrir satt, að það sem í þessum viðbœti stendr, sé áreiðanlegt, sökum þess það væri frá einhverjum kristnum manni, er staðið hefði í nánu sambandi við postulana eða lærisveina þeirra.

það er nú rétt fyrir skömmu komin fram upplýsing um það, að þessi ætlan kirkjunnar muni vera alveg áreiðanleg. Handrit er til af guðspjöllum nýja testamentisins á armeniskri tungu, ritað árið 989 af munk einum, Jóhannesi að nafni handa klaustrinu Noravank. Er í því handriti eftir 8. vers 16. kap. í

Mark. guðsp. eyða, og í þá eyðu ritað með rauðu bleki: „*Eftir Ariston öldung*“, og svo koma versin 9.—10. rituð með sömu hendi. Vers þau, sem hér er um að rœða, voru kunnug Tatían, höfundi guðspjalla-harmoníunnar[1], um árið 170 e. Kr. Fyrir þann tíma hefði þá *Ariston* þessi, sem hið armeniska guðspjalla-handrit eignar versin, átt að hafa verið uppi. En enginn kristinn rithöfundr eða kirkjulegr frœðimaðr með því nafni er kunnugr, svo framarlega sem nafnið er alveg óafbakað. En þess er að gæta, að nöfnunum Ariston og Aristíon er til forna oft blandað saman. Nú vill svo til, að Euvebíus, elzti kirkjusöguhöfundrinn, minnist á kristinn mann að nafni Aristíón, sem Papías, einn hinna svo kölluðu postullegu feðra, hafi hlýtt á. Papías var uppi snemma á 2. öld, og lítr út fyrir, að hann (um 125 e. Kr.) hafi samið skýringar við eitthvað af guðspjöllunum og fengið til þess ýmsa upplýsing frá mönnum, sem persónulega höfðu þekkt postulana. Einn þeirra var Aristíon, og hefir hann að öllum líkindum verið uppi með Jóhannesi postula meðan hann á síðara hluta æfi sinnar átti heima í Efesus í Litlu-Asíu, því að Papías var líka lærisveinn Jóhannesar. Sé þetta rétt ályktað, eins og full ástœða virðist vera til að ætla, ætti að vera óhætt að trúa því, að það, sem stendr í hinum 12 síðustu versum Markúsar guðspjalls, sé eins áreiðanlegt eins og nokkuð annað í því guðspjalli, enda þótt annar maðr en Markús hafi fœrt þau vers í letr.

---

Séra *Helgi Hálfdanarson*, forstöðumaðr prestaskólans í Reykjavík, andaðist 2. Jan., 67 ára gamall (fœddr 19. Ág. 1826). — Hann tók guðfrœðispróf við háskólann í Kaupmannahöfn 1854 og prestvígðist á næsta ári til Kjalarnessþinga. Frá 1858 til 1867 var hann prestr á Görðum á Álftanesi, en varð síðan kennari við prestaskólann. Árið 1885 varð hann forstöðumaðr þess skóla eftir Sigurð Melsteð, sem þá fékk lausn frá embætti.

Séra Helgi var hinn langfremsti guðfrœðingr og kennimaðr kirkjunnar á Íslandi nú í síðustu tíð; enda var almennt við því búizt, að hann yrði gjörðr að biskupi landsins, þá er Pétr

---

1) Um fund þessa merka rits hérna um árið má lesa í *Sam.* 3. árg. nr. 3.

biskup féll frá. Hann var heitr trúmaðr og sann-evangeliskr í kenning sinni bæði sem prestr og guðfrœðiskennari. — Svo sem kunnugt er samdi hann barnalærdómskver það, sem unglingar læra nú í öllum íslenzkum söfnuðum. Hann vann og mikið að sálmaskáldskap og er höfuðmaðr í hinni nýju sálmabók vorri. Af kirkjusögu hans hefir því miðr ekki komið út á prent nema lítill hluti.

---

## *ÞAKKARORÐ*

*til lektors, séra Helga sál. Hálfdanarsonar.*

Haf þökk fyrir skólann, sem þú hefir stýrt,
haf þökk fyrir orðið, sem hefirðu skýrt,
haf þökk fyrir ráðin, sem réðir þú bezt,
og raungóða dœmið, sem eftir þú lézt.

Haf þökk fyrir börnin, sem þú hefir frœtt,
haf þökk fyrir trúna, sem hefirðu glœtt,
haf þökk fyrir ljósin guðs heilög og há,
sem hefir þú upptendrað börnunum hjá.

Haf þökk fyrir lýðinn, sem þér var svo kær,
og þú vildir æ leiða guðs ríki nær.
Haf þökk fyrir sálmanna fegrstu fjöld,
er fólkið mun syngja hér öld eftir öld.

Haf þökk fyrir ljóðin við skírnina skær,
í skaut guðs er leidd eru börnin vor kær.
Haf þökk fyrir ljóðin við fermingarfund,
er festa þau heit sitt á œskunnar stund.

Haf þökk fyrir ljóðin, sem hljóma guðs hjörð,
er heilaga flytur hún þjónustugjörð.
Haf þökk fyrir ljóðin við lausnarans borð,
er laða til borðsins þín hjartanleg orð.

Haf þökk fyrir ljóðin, er hljóma svo hlýtt,
er hjónin í kærleika sameinast blítt.
Haf þökk fyrir ljóðin, sem þíða vor sár
og þerra vor sorgar- og skilnaðartár.

Haf þökk fyrir kenningar, ræður og rit,
og raunir og þrautir og erviði' og strit.
Haf þökk fyrir lífs þíns hið ljómandi starf,
og ljósið, sem kristninni gafst þú í arf.

VALDEMAR BRIEM.

---

**Aldamót** III, sem þegar fyrir nokkru eru komin frá Íslandi, hafa þetta inni að halda: Fyrst eru tvö kvæði, íslenzkuð af séra Valdemar Briem, nefnilega *Prestvígslusöngr* eftir Gerok og *Kirkjuklukkan í Farum* eftir Boye. Þar næst er *Gildi gamla testamentisins* eftir séra Friðrik J. Bergmann; þá *Eilíf vansæla* eftir séra Hafstein Pétrsson; þá *Kristr og gamla testamentið* eftir séra N. Steingrím Þorláksson; og seinast *það, sem mest er í heimi* (kærleikrinn) eftir ritst. *Sam.* — Verð *Aldamóta* er 50 cts., og er ritið til sölu hjá ritstjóra þess séra Fr. J. Bergmann, báðum prestunum ísl. hér í Winnipeg og sömuleiðis hjá bóksala W. H. Paulson. — Ágóði allr af sölu *Aldamóta* gengr í skólasjóð kirkjufélagsins.

---

Leiðrétting: Í 78. Davíðs sálmi eftir séra V. Br. í Október-nr. i *Sam.* stendr í 11. v. „úr herlúðrum", en á að vera „úr herbúðum", og í 4. v. sama sálms, seinustu línu, stendr *er* í staðinn fyrir *en*.

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; annar ársfjórðungr 1894.

1. lexía, sunnud. 1. Apríl: Bœn Jakobs og sigr: 1 Mós. 32, 9—12 og 24—30.
2. lexía, sunnud. 8. Apríl: Ófriðr á heimili Jakobs: 1. Mós. 37, 1—11.
3. lexía, sunnud. 15. Apríl: Jósef seldr til Egyptalands: 1. Mós. 37, 23—36.
4. lexía, sunnud. 22. Apríl: Jósef settr yfir allt Egyptaland: 1. Mós. 41, 38—48.
5. lexía, sunnud. 28. Apríl: Jósef fyrirgefr brœðrum sínum: 1. Mós. 45, 1—15.

---



„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Böndal.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.